VERKALÝÐSBLAÐIÐ
ARÐRÆNDIR OG KÚGAÐIR ALLRA LANDA SAMEINIST!

## Kjarasamningum verði sagt upp sem fyrst!

baksíða

MÁLGAGN EININGARSAMTAKA KOMMÚNISTA (M-L) 3.árg. 1.Tbl. 17.jan.-13.feb. 1977 100 kr.

### Nýja skattalöggjöfin:

# STÓRFELLD KJARA-SKERÐING

Furðu hljótt hefur verið um frumvarp til nýrra skattalaga, sem lagt var fram á þingi í desember og sem kórónar gegndarlausar kjaraskerðingar og kauprán sem verkafólk hefur orðið að þola undanfarin misseri. Heil holskefla verðhækkana lífsnauðsynja reið yfir í lok síðasta árs og fleiri eru væntanlegar. Jafnframt því vex atvinnuleysi hröðum skrefum og er á mörgum stöðum þegar orðið geigvænlegt. Uppsögnum fólks úr vinnu fer og hraðfjölgandi og fyrir liggur að ný lög um vinnulöggjöf verkafólks verði samþykkt, takist ekki að koma í veg fyrir það. Setning þeirra laga myndi þýða stórkostlega skerðingu á réttindum verkafólks, en það að frumvarp þetta skuli lagt fram

Frh.bls.2



EIK(m-l) ályktaði á stofnþingi sínu að hvetja íslenskar konur til að stofna til breiðrar baráttufylkingar um þau baráttumál kvenna sem efst væru á baugi hverju sinni.
Konur eru vinnukraftur sem "gripið er til" þegar framleiðslan er á þensluskeiði. Nú kreppir hins vegar að, konum er unnvörpum sagt upp vinnu og þær sendar heim. En nú ætla atvinnurekendur að fara nýja leið til þess að losna við konur af vinnumarkaðnum: að samþykkja skattalög sem gera konum erfitt fyrir með að vinna utan heimilis vegna skattaálagnanna.
Konur í verkalýðsstétt eru kúgaðasti hluti stéttarinnar! TIL BARÁTTU KONUR!
Mynd: Verkalýðsblaðið

# Vagnstjórar SVR hefja baráttu

## Öryggisbúnaður vagnanna í ólestri

Að undanförnu hafa gerst æ háværari raddir strætisvagnabílstjóra vegna öryggisbúnaðar vagnanna.
Fréttamaður Verkalýðsblaðsins tók af þessu tilefni eftirfarandi viðtal við Sigurð Gíslason vagnstjóra.

Vbl.: Viltu segja okkur frá baráttu ykkar vagnstjóra vegna öryggisútbúnaðarins?

S.G.: Í stuttu máli hefur öryggisútbúnaður vagnanna verið í ólestri árum saman og versnaði með tilkomu nýrri vagnanna, því að sögn forráðamanna er erfitt að setja keðjur á þá. Okkur hafði verið lofað að nauðsynlegar breytingar yrðu gerðar svo hægt væri að setja keðjur á vagnana í vet-

Frh.bls.2



# „KFÍ/ML" í upplausn

## Eflum EIK (m-l)

Verkafólki og annarri vinnandi alþýðu er nauðsynlegt að skilja milli þeirra sem starfa fyrir hag hennar í stéttabaráttunni og þeirra sem ekki gera það. Fyrir utan ríkisbubbana og embættismenn ríkisins verður að varast falska alþýðuvini - falsmarxistana sem endurskoða marxismann og hentistefnumennina sem hugsa aðeins um eiginn hag.
Í síðarnefnda hópnum má finna forystu stéttarfélaganna, forystu Alþýðubandalagsins og hinna krataflokkanna. Þar eru líka þeir sem klæðast rauðustum frakka en eru ekki hótinu betri.
Þennan flokk fyllir Fylkingin sem er á móti útfærslu fiskveiðilögsögunnar, meðmælt erlendri stóriðju og daðrar við verkalýðsforystuna. Og þarna er að finna samtök sem kalla sig "flokk", og meir að segja kommúnistaflokk og framvörð alþýðu. En verk þessara samtaka og þróun sýna að það eru öfugmæli. Þau sýna að barátta EIK(m-l) og stefna hafa gert EIK(m-l) að einu kommúnísku samtökum landsins.

KSML/"KFÍ/ML": SKEMMDARVERKASAMTÖK.

Forveri "Kommúnistaflokksins" - Kommúnistasamtökin (KSML) voru aldrei marx-lenínísk og kommúnísk

Frh.bls.5

Hér er afrit af bréfi sem 7 fyrrum félagar í "KFÍ/ML" sendu frá sér, þar sem þeir sögðu sig úr flokknum og hvöttu aðra til að fylgja fordæmi sínu. Auk þeirra hafa félagar á Akureyri yfirgefið flokkinn, og fleiri eru á förum.

Reykjavíkurdeild KFÍ/ML
c/o

Reykjavík 4.1.1977

Til félaga flokksins

Innan KFÍ/ML hefur "vinstri"hentistefnan tryggt sig endanlega í sessi. Sú tveggja línu barátta sem hefur átt sér stað innan flokksins hefur leitt í ljós að lýðræðislega miðstjórnaraflið er ekki til staðar og tilraunir til þess að koma því á hafa mistekist.
Flokkurinn er ekki búinn vopnum sjálfsgagnrýni. Miðstjórn flokksins, undir forystu Kristjáns Guðlaugssonar og Gunnars Andréssonar, hefur þverbrotið allar grundvallarreglur marxismans-lenínismans.
Undirritaðir félagar telja sig ekki lengur geta borið ábyrgð á taumlausri hentistefnu og ævintýrapólitík flokksins. Undir forystu "vinstri" hentistefnunnar er flokkurinn dæmdur til að vera klofningsafl, verkalýðnum og kommúnísku hreyfingunni til bölvunar.
Baráttan fyrir sigri yfir "vinstri" hentistefnunni og fyrir sigri marxismans-lenínismans getur aðeins átt sér stað fyrir utan flokkinn.
Undirritaðir segja sig hér með úr flokknum, en baráttu okkar gegn "vinstri" hentistefnunni er ekki lokið. Næsta skref okkar er gagngert uppgjör við þróun og vöxt "vinstri" hentistefnunnar innan KSML/KFÍ/ML.
Við skorum á alla heiðarlega félaga innan flokksins að fylgja fordæmi okkar og skeri upp herör gegn "vinstri" hentistefnunni.

### Mjólkurbúðamálið:

# Slæmar atvinnuhorfur

Svo sem fram kom í síðasta Vbl. sendu baráttukonurnar í röðum mjólkurbúðakvenna, þingmönnum Reykjavíkur og Reykjaneskjörkæmis bréf, þar sem starfsstúlkur í mjólkurbúðum fara fram á að 2o-25 búðir verði reknar áfram og elstu konunum þar með tryggð vinna í 3-5 ár áfram.
Því er skemmst að minnast að stuðningur við þessa beiðni var enginn af hálfu þingflokkanna. Stjórnarandstöðuflokkarnir sem báru upp tillögu um að einungis lo búðir yrðu reknar áfram, óskuðu þess að málinu yrði vísað til nefndar og þar liggur nú marflöt þessi "göfugmannlega" lo-búða beiðni "verkalýðsleiðtoganna". Sem sagt þeir kunna að syngja vögguljóðin í þingnefndunum.

Staðan í dag.

Að öðru leyti er staðan í mjólkurbúðamálinu þessi:
Atvinnuhorfur fyrir konurnar eru mjög slæmar og mjög margar kvennanna lifa í algjörri óvissu um framtíð sína. T.d. hefur Verkalýðsblaðið haft tal af konum sem voru bjartsýnar í haust, um að kaupmaðurinn við hliðina myndi ráða þær um leið og hann tæki við búðinni. En kaupmaðurinn við hliðina hefur í mörgum tilfellum hætt við að kaupa mjólkurbúðina, samningar milli kaupmanns og Samsölunnar ekki tekist. Einnig hefur reynslan sýnt að þeir kaupmenn sem þegar hafa keypt og hafið rekstur Samsölubúða, ráða aldrei nema e.t.v. eina af fyrrverandi starfstúlkum og sækjast þá eftir hinum yngstu.
Hallveig formaður A.S.B. hefur enn brotið lög félagsins um að halda fund mánaðarlega yfir vetrarmánuðina. Í félaginu hefur enginn fundur verið síðan í nóvember og allt óafgreitt með lífeyrissjóðamál kvennanna, svo og hvort félagið verði áfram starfrækt. Ótrúlegt er að Samsölunni takist að loka öllum búðum sínum

Frh.bls.4

## Sovétríkin sækjast eftir heimsyfirráðum bls. 4

1. Tbl. 17.jan. - 13.feb. 1977




# Nýja árið:

# Enga samninga við EBE

Eftir að hafa enn aukið skattaáþján alþýðufólks og stórhækkað verð á nauðsynjum býr auðstéttin og ríkisvaldið sig undir frekari bolabrögð.

Ráðamenn tala um "sigur"í landhelgisdeilunni. En í landinu eru tvær meginstéttir, borgarastéttin og atvinnurekendur annars vegar og verkalýðurinn hins vegar. Það sem er sigur einni stéttinni er hinni ósigur - þær eiga enga sameiginlega hagsmuni.

Enginn af fiskveiðisamningunum í fiskveiðideilunni hefur verið alþýðunni til sigurs. Rányrkjan á miðunum heldur áfram, búsetu og atvinnu fólksins er ógnað og íslensk gróðaútgerð tekur það sem bretar, þjóðverjar eða belgar fá ekki. Og pólverjar gína gráðugir yfir miðunum. "Vinstri stjórn" og "sósíalistinn" Lúðvík seldu aðgang að auðlindum Íslands fyrir viðskiptahagsmuni auðhringanna íslensku. Hægri stjórn og Mattías halda því áfram. Svo deila þessir kónar innbyrðis um árangurinn. Nú standa samningar við EBE fyrir dyrum - auðvitað með leynilegum samningsdrögum og hátíðlegri yfirlýsingu um að þetta heiti allt "fiskivernd" og bretar fái "aldrei" aðgang að lögsögu Íslands. En leyndin og lygarnar fela ekki staðreyndir. EBE vill þvinga fram samninga og íslenskt auðvald vill samninga um veiðiheimildir handa mörgum EBE-þjóðum innan 200 mílna markanna. Rányrkjuleyfið selur ríkisstjórnin fyrir leyfi frá EBE handa íslenskri stórútgerð svo hún megi stunda rányrkju á auðlindum annarra þjóða, sérstaklega Grænlendinga. EBE hefur engan rétt til að ræna grænlenskar auðlindir, sem eru eign grænlensku þjóðarinnar. Og íslenska ríkisstjórnin reynist grænlensku bræðraþjóðinni aumur þjófsnautur EBE.

Fiskistofnar við Ísland eru svo ofveiddir að vinnandi fólk á Íslandi verður að koma í veg fyrir erlendar veiðar og innlenda rányrkju. Rányrkja við Grænland og í Norðursjó skal stöðvuð. En hvar eru nú hinir hugprúðu "baráttumenn" stjórnarandstöðunnar, Samstarfsnefndarinnar til verndar landhelginni og "Kommúnistaflokkurinn"? Hvergi.

Einu samtökin sem stefna að skipulagningu baráttu gegn samningum og rányrkju eru LANDHELGISSAMTÖKIN. Fundir þeirra, merki og 10.000 dreifirit eru ekki á allra vörum en tákna þó eina vísinn að fjöldabaráttu. Einu pólitísku samtökin er styðja landhelgissamtökin eru EIK (m-l), en t.a.m. Þjóðviljinn hefur hundsað hverja einustu fréttatilkynningu og samþykkt frá LHS.

Ljáið Landhelgissamtökunum lið og takið þátt í mögulegri undirskriftasöfnun þeirra gegn samningunum. Það er aldrei of seint að berjast. Þótt samningsdrögin verði kannski fljótlega samþykkt á Alþingi verður rödd fólksins að heyrast.

# EIK (m-l) tveggja ára

2 ár voru liðin frá stofnun EIK(m-l) þann 11.-12. jan. síðastliðinn. Einingarsamtök kommúnista (marx-lenínista) urðu til í baráttu við ruglanda og hentistefnu trotskíismans í Fylkingunni og klofningsstarf Kommúnistasamtakanna KSML (1972-75). Þau urðu fyrstu marx-lenínisku samtökin á Íslandi. Með þeim voru bestu hefðir Kommúnistaflokks Íslands magnaðir á nýtt og sókn til stofnunar nýs stjórnmálaflokks verkalýðs og annarra alþýðu hafin.

EIK(m-l) hafa barist hart fyrir framgangi marx-lenínismans - gegn ofurvaldi borgarastéttarinnar, gegn falsmarxisma Fylkingarinnar, Alþýðubandalagsins og KFÍ/ML - KSML og gegn eigin villum. Samtökin hafa staðið í baráttunni í fremstu röð, - í mjólkurbúðamálinu, landhelgisbaráttunni, gegn erlendri stóriðju, fyrir bættri dagvistun, myndun samfylkingar um alþýðumenningu og í baráttu gegn erindrekum atvinnurekenda í verkalýðshreyfingunni - þótt í smáum stíl sé enn um sinn.

Á tveggja ára afmæli sínu fagna samtökin umtalsverðum sigri í baráttunni fyrir sameiningu kommúnista - pólitísku gjaldþroti "Kommúnistaflokksins".

EIK(m-l) skora á byltingarsinna og framsækið alþýðufólk að leggja samtökunum lið, fylkja sér um marx-lenínismann og einu undirbúningssamtök kommúnistaflokksins - EIK(m-l)

# Takið þátt í námsstarfi

Þekking á stéttabaráttunni og réttri baráttuaðferð er nauðsynleg til árangursríks starfs. EIK(m-l) líta á fræðslustarfið sem eitt af höfuðverkefnum samtakanna. Samtökin starfrækja námshópa þar sem m.a. er rætt um:

- íslenskt þjóðfélag og stéttskiptingu þess,
- hlutverk stéttafélaganna og hvað gera verði til þess að þau verði á ný baráttutæki í höndum vinnandi alþýðu,
- frelsisbaráttu erlendrar alþýðu og kommúnista,
- baráttuleið alþýðunnar, þá baráttu sem alþýðan verður að heyja til þess að öðalast frelsi og sjálfstæði í skipulagi sem hún sjálf hefur skapað.

Takið þátt í þessu starfi!

Skráning í námshópa fer fram á opnunartíma skrifstofu Einingarsamtaka kommúnista (marx-lenínista) að Laugavegi 178 II. hæð, miðvikudaga kl. 16-19 og föstudaga kl. 17-19. Síminn er 8 42 10.

# VAGNSTJÓRAR

Frh.af forsíðu

ur en ekkert útlit er fyrir að svo verði.
Við vagnstjórar dæmum eftir reynslu okkar úr starfinu þegar við krefjumst breytinganna, oft margra ára reynslu.

Vbl.: Hver ber ábyrgðina ef eitthvað út af ber t.d. ef vagnstjóri missti stjórn á vagni í hálku og farþegar hlytu skaða af?

S.G.: Við værum skaðabótaskyldir og myndum missa ökuréttindin og þar með atvinnugrundvöllinn.

Vbl.: Hvernig er samstaðan hjá ykkur vagnstjórum?

S.G.: Við vinnum þrískiptar vaktir og eigum því erfitt með að ná saman. Þetta notfæra forráðamenn sér. Yfirmenn strætisvagna hafa látið það út úr sér að best væri ef vagnstjórarnir hittust helst aldrei á vaktaskiptunum.
Svo reyndum við að ná saman og höfðum samband við trúnaðarmenn en þeir snérust frekar á móti okkur en hitt, af þrælsótta líklega. Við stöndum því í þessu upp á eigin spýtur, héldum fund og samþykktum ályktun sem birtist í fjölmiðlum. Trúnaðarmenn deildu þá á okkur fyrir að birta þetta opinberlega.
Okkur almennum vagnstjórum finnst hins vegar að okkur beri skylda til að benda almenningi á hættuna sem stafar af því að öryggisútbúnaðurinn er óviðunandi.

Vbl.: Hverjar eru tillögur ykkar um úrbætur og svör forráðamanna við þeim?

S.G.: Ég vil leggja áherslu á að fólkið í hverfunum sem við keyrum til, er orðið okkur persónulega kunnugt og hvort sem er berum við hag farþeganna fyrir brjósti. Þetta fólk þarf að komast til vinnu sinnar og erinda á réttum tíma. Ef við neituðum að keyra vagnana í þessu ástandi myndum við setja þúsundir fólks sem ekki kemst af án okkar í stökustu vandræði. Við viljum fara þá leið að allir vagnar verði negldir og saltdreifing í fullkomnu lagi.

Forráðamennirnir segja alltaf:" Ef þið fáið nagla verður hætt að dreifa saltinu".
Við berjumst fyrir hvorttveggja og förum þar með ekki fram á neitt meira en hinn almenni bíll í borginni hefur. Forystumaður Bifreiðaeftirlitsins er sammála okkur um að vagnarnir séu ekki nógu vel búnir í hálku.
Við erum heppnir að ekki hafa hlotist af stórslys þegar vagnar hafa runnið stjórnlaust t.d. niður Bankastræti eða Túngötu.

Vbl.: Hverjar eru framtíðarhorfurnar um úrlausn mála?

S.G.: Gatnamálastjóri berst fyrir ónegldum dekkjum vagnanna. Hann sagði í Mogganum um daginn að of dýrt væri fyrir borgina að leggja út fyrir nagladekkjum og saltdreifingu og telur upp allt mögulegt sem hægt væri að kaupa fyrir þá peninga.
En þau slys sem vanræksla á öryggisútbúnaði getur valdið er ekki hægt að meta í peningum.

Vbl.: Hvernig aðferðir nota forráðamenn vagnanna til að sundra einingu ykkar?

S.G.: T.d. með því að vagnformenn taka einn og einn bílstjóra á eintal á vaktaskiptum, nú og svo hafa yfirmenn þeirra hinu hinum megin götunnar (við Hlemm) aftur sín áhrif og senda formennina út af örkinni til að sundra okkur. Sumir okkar þora ekkert að segja um málið þegar vagnformenn heyra. En allir eru óánægðir og sammála um að þetta sé hættuástand. Strætisvagnabílstjórar í Kópavogi hafa sent okkur stuðningsyfirlýsingu undirritaða af af öllum þeirra vagnstjórum.

Vbl.: Hvernig eru kjör strætisvagnabílstjóra launalega séð?

S.G.: Ætti ég að lifa af þessu kaupi, veit ég ekki hvernig færi. Um síðustu mánaðarmót náði kaupið ekki alveg 9o þúsundum. Flestir vagnstjórar vinna aukavinnu t.d. við leigubílaakstur, sendibílaakstur eða ökukennslu. Ég vinn að meðaltali 12-14 tíma á sólarhring, við erum fjögurra manna fjölskylda lifum venjulegu reglusömu lífi, spörum, en það er rétt á takmörkunum að endarnir nái saman. Ég þekki persónulega þó nokkrar fjölskyldur sem hafa flutt af landi brott, hreinlega orðið landflótta því þær gátu t.d. ekki eignast húsnæði þótt þær legðu dag við nótt, né tekið almennilegt sumarfrí ár eftir ár. Þetta fólk er í sumum tilfellum að tapa heilsunni af striti á unga aldri og segist ekki geta hugsað sér að halda áfram sama þrældómnum endalaust.
En kjaramál okkar verkafólks eru stórmál útaf fyrir sig.

Verkalýðsblaðið þakkar Sigurði viðtalið og lýsir yfir fullum stuðningi við baráttu vagnstjóra og hvetur almenning til að styðja þessa baráttu af ráðum og dáð.
Þetta er hagsmunamál allrar alþýðu.
Samstaða - vagnstjórar og öll önnur alþýða!

# Röntgentæknar:

Fram kom í síðasta Vbl. að engar samningaviðræður höfðu hafist af hálfu ríkisvaldsins við röntgentækna á Landsspítalanum, en röntgentæknar á Borgarspítalanum höfðu hafið störf að nýju eftir hótanir um að einstæðu mæðurnar í hópi röntgentækna myndu missa barnaheimilisplássin o.f.l.

Nú hafa röntgentæknar á Landsspítalanum fengið skriflegt loforð um vetrafrí, en það var ein af kröfum þeirra. Tveir hafa tekið til starfa að nýju og fleiri munu fylgja á eftir.

Verkalýðsblaðið mun skrifa nánar um mál röntgentækna eftir vetrarsamningana en þá munu samningar þeirra endurnýjaðir. Óhætt er að fullyrða að barátta þeirra hefur þegar borið nokkurn árangur.



# STÓRFELLD KJARASKERÐING...

Frh.af forsíðu

einmitt á þessum tíma er síður en svo tilviljun. Atvinnurekendur og ríkisvald þeirra ætlar að hafa vaðið fyrir neðan sig og reyna að þrengja athafnasvið verkalýðsbaráttunnar með lagasetningu nú þegar útlit er fyrir mjög vaxandi kreppu, og þar með atvinnuleysi. Hið sama gildir um skattafrumvarpið. En hvar er þá afrakstur af allri þeirri ógnarlegu vinnu og stöðugu striti verkafólks, sem virðist stöðugt leiða til verri og verri afkomu heimilanna? Jú, það þarf ekki að leita hans lengi. Síðasta ár var til dæmis blómaár fyrir borgarastéttina á Íslandi. Einokunarhringarnir SÍS og SH hafa aldrei sankað að sér eins miklum gróða á einu ári, Flugleiðir hafa stöðugt aukið umsvif sín, Eimskip eru í hugleiðingu um að kaupa heilan tug skipa (!), bankarnir skila hundruð milljóna í hreinan hagnað og svo mætti lengi telja. Nú á svo að fylgja góðu ári eftir með því að leggja drögin að enn meira gróðaári fyrir einokunarhringana og braskaralýðinn. Handhafar ríkisvaldsins vita líka að ASÍ-broddarnir "sýna alltaf fullan skilning", þegar erfiðlega gengur að halda gróðanum í hámarki.

## Ný skattalög: aukin skattbyrði

Nýja skattafrumvarpið gerir ráð fyrir því að frádráttur vegna tekna giftra kvenna verði felldur niður, en tekin verði upp helmingaskipti á tekjum hjóna, án tillits til þess hvort annað eða bæði afli teknanna. Síðan eru þessir tekjuhlutar skattlagðir eins og um 2 einstaklinga væri að ræða, en vissir afslættir veittir eftir sérstökum klásúlum þar um. Frumvarpið virðist gera ráð fyrir því að alltaf borgi sig, óháð barnafjölda og tekjum, að vinna úti og hvergi er talað um það hvenær borgar sig fyrir bæði hjón að vinna utan heimilisins. Eða eins og segir í sjálfu frumvarpinu:

"Almennt sagt er þess að vænta að hjón þar sem eiginkonan (!) starfar utan heimilins mundu hafa ávinning af þessari breytingu. Skattbyrði hjóna, þar sem eiginkonan (!) aflar launatekna eykst nokkuð, sérstaklega ef tekjur hennar eru mjög háar". Þetta er nefnt skref í átt til jafnréttis og þykir víst engum mikið!

Í ljós kemur, þegar reiknuð eru dæmi með fjölskyldu af "gefinni stærð", t.d. hjónum með tvö börn, að ráðstöfunartekjur fjölskyldu af þeirri stærð myndu minnka verulega frá því sem nú er, miðað við gömlu skattalögin. Er þá átt við að bæði hjónin ynnu úti í dæmi þessu. Skattareglurnar eiga þess vegna beinlínis að hvetja konur til þess að vera heima (það er ekki tilviljun að þetta kemur fram nú, þar sem konur eru stærsti hlutinn af því vinnuafli sem "gripið er til" þegar á þarf að halda, en eru svo sendar heim til bús og barna þegar kreppir að).

Augljóst er að þessi þróun mun að auki leiða til mikils samdráttar í byggingu dagvistunarstofnana, þar sem þörf fyrir slíkar stofnanir mun minnka.

Hér hefur aðeins verið drepið á fáein atriði sem menn taka eftir við að fletta þessu frumvarpi í gegn. Við ætlum ekki að tína til allt það sem myndi þýða kjaraskerðingu fyrir alþýðufólk, ef samþykkt yrði, en af nógu er sannarlega að taka. Við viljum hins vegar leggja mikla áherslu á að þetta er aðeins einn þáttur í kjaraskerðingarherferð atvinnurekenda og ríkisvaldsins á hendur verkafólki - en vissulega mikilvægur þáttur. Verkafólk verður að kynna sér efni þess, enda þótt það sé í sjálfu sér afar óaðgengilegt til þess að skilja til fullnustu. Taka verður upp harða baráttu gegn frumvarpinu í samhengi við baráttuna gegn frumvarpinu um nýja vinnulöggjöf.

En lítt stoðar ao treysta í blindni á ASÍ-broddana, Alþýðubandalagið og önnur slík öfl sem uppvís hafa orðið að því hvað eftir annað að kljúfa og afvegaleiða baráttu hvar sem hún kemur upp, að deila og drottna yfir verkafólki. Reynslan hefur ótvírætt kennt, að samtakamáttur alþýðunnar er aflið sem færir sigur.

Einingarsamtök kommúnista munu eftir megni stuðla að baráttu og eflingu hennar hvar sem vera skal. Vísum á bug öllum tilburðum til þess að kljúfa verkalýðsstéttina!

EINING Á GRUNDVELLI STÉTTABARÁTTU!




# SÉRSTÆÐ FJÖLDALÍNA

Undanfarið hefur Stéttabaráttan málgagn klíku þeirrar sem kallar sig "Kommúnistaflokk Íslands", viðrað sig upp við Baráttusamtök námsmanna. Því kom það tíðindamanni Verkalýðsblaðsins ærið spánskt fyrir sjónir þegar þrír sauðdrukknir félagar klíkunnar réðust á námsmenn úr SÍNE, sem voru að dreifa upplýsingum um lánamál námsmanna (Baráttusamtök námsmanna studdu þessa aðgerð SÍNE-manna). Klíkufélagarnir þrír réðust á námsmennina með óbóta skömmum og svívirðingum hrifsuðu af þeim dreifibréf og tróðu þau niður í götuna.

Menn sem standa niðri í bæ með áróður af "vinstri-gerðinni" eru því ekki óvanir að ruddar og smáfasistalýður ybbist upp á þá, en námsmennirnir úr SÍNE urðu svo sannanlega hvumsa við þegar þeim var tjáð að bandittarnir þrír væru hluti "framvarðarsveitar verkalýðsins á Íslandi" "KFÍ/ML"!

Það hlýtur að vera lágmarkskrafa að flokksrekaldið biðji samtök námsmanna afsökunar á framferði félaga sinna. Það sæmir Kristjáni Guðlaugssyni leiðtoga flokksins hins vegar ágætlega að hafa ribbalda á borð við títtnefnda þremenninga innan sinnar klíku.

Verkalýðsblaðið hvetur alla heiðarlega félaga KG-klíkunnar til þess að fylgja fordæmi fyrrverandi félaga sinna og yfirgefa sökkvandi skip "KFÍ/ML".

# MJÓLKURBÚÐAMÁLIÐ...

Frh.af forsiðu

fyrir 1. febrúar þar sem Verkalýðsblaðið hefur fyrir satt að forráðamönnum hennar hafi enn ekki tekist að ráðstafa öllum búðunum. En ekki hafa hinir háu herrar í stjórn Samsölunnar látið neitt frá sér heyra um það, hvort þeir hyggist reka áfram nokkrar búðir og þar af leiðandi endurráða nokkrar starfsstúlkur.

Nú hefur það sannast sem Baráttusamtökin gegn lokun mjólkurbúða spáðu í upphafi, að breytingarnar á mjólkursölunni myndu einnig bitna á bílstjórunum. Þeir hafa nú fengið tilskipun um styttan vinnutíma og þar af leiðandi minna kaup. Margir stærri kaupmanna munu nú sækja mjólk sína sjálfir. Líklegt er að einhverjir bílstjóranna missi vinnu sína. Illa gekk fyrir Samtökin gegn lokun mjólkurbúða að ná samstöðu með bílstjórunum í sumar, þó lýstu að minnsta kosti tveir þeirra yfir stuðningi við baráttu kvennanna. VERKALÝÐSBLAÐIÐ skorar á þessa bílstjóra nú að hefja baráttu inna stéttarfélagsins Dagsbrúnar vegna yfirvofandi kjaraskerðingar og/eða vinnumissis.

Þá gætuð þið bílstjórar á mjólkurbílum innan Dagsbrúnar vísað til þess að mjólkurbúðarkonur sendu félagi ykkar bréflega beiðni í sumar með beiðni um stuðning við málstað sinn.

VERKALÝÐSBLAÐIÐ mun í febrúarblaði sínu gera úttekt á mjólkurbúðamálinu og ávinningum af baráttunni. Látum ei deigan síga verkafólk, lærum af hverri baráttu svo að hin næsta færi okkur stærri sigra!



Ljóð.

Hugir fólksins leita hátt
kraftur gleðinnar
breiðist út á ný
fjórmenningar eru fallnir
ljós stjarnanna lýsir upp
innstu fylgsni hugans
byltingin heldur áfram.

Karl.

# Styðjum PAC!

Asaníu-nefndin hvetur fólk til þess að láta fé af hendi rakna til baráttunnar sem nú er háð í Asaníu (Suður-Afríku) og þegar hefur kostað margan góðan félagann og baráttumanninn lífið. Þegar hafa verið send 72 pund til skrifstofu frelsissamtaka Asaníu - PAC - í London, en söfnunin heldur áfram af fullum krafti. Framlög má greiða á gíróreikning 72200. Upplýsingabæklingar frá PAC eru til sölu í bókabúð Október-forlagsins, Laugavegi 178, II. hæð.

# Gangið í LANDHELGISSAMTÖKIN!

Landhelgissamtökin minna félaga sína á að greiða nú þegar árgjöld sín, kr. 1.000. Einnig að félagar geri skil fyrir merkjasölu. Gírónúmer samtakanna er 40900.

Þá skorar Landhelgissamtökin á áhugafólk um sjávarútvegsmál og fiskverndun að ganga til liðs við samtökin þegar í stað. Verkefnin eru nóg framundan. Hafið samband við Önnu Jónsdóttur, sími 7 30 93.

# Frá Dagvistarsamtökunum

Aðalfundur Dagvistarsamtakanna verður haldinn í Lindarbæ laugardaginn 5. febrúar kl. 14.00.

Dagvistarsamtökin eru samtök fóstra og foreldra og setja fram kröfur um fleiri dagvistarheimili og berjast gegn hækkunum á dagvistargjöldum, auk þess sem þau láta morg fleiri málefni sem varða dagvistun til sín taka. Samtökin leggja á það áherslu að treyst verði á samtakamátt fjöldans fremur en gerðir einstaklinga eða ráðamanna í viðkomandi baráttu.

Dagvistarsamtökin hvetja fólk til að taka þátt í baráttunni og ganga í samtökin. Skráning fer fram í síma 3 59 04.

# Mikilvægar bækur

Bókabúð Október-forlagsins Laugavegi 178, II. hæð, er opin miðvikudaga kl 16-19 og föstudaga kl. 17-19. Þar eru til sölu bækur, blöð, hljómplötur og veggblöð á vægu verði. Sérstök athygli er hér vakin á mikilvægum bókum sem búðinni hafa nýlega borist: Ræður félaga Envers Hoxha á 7. þingi Flokks Vinnunnar í Albaníu,

Október

þessi bók kostar aðeins kr. 250. Einnig I. og II. bindi Úrvalsrita Envers Hoxha - hvort bindi kostar 1.000 kr. Þá er úrval rita frá PAC - bróðurflokki EIK(m-l) í Asaníu (Suður-Afríku).

# Sovétríkin sækjast eftir heimsyfirráðum

Til þess að meta hagkerfi Sovétríkja nútímans er ekki nóg að líta á Sovétríkin ein sér. Efnahagur Sovétríkjanna er mjög tengdur austur-Evrópu löndunum, sem eru með efnahagsbandalaginu Comecon, algerlega undirlögð sovéskum hagsmunum. Með "takmörkuðu sjálfræði" og "alþjóðlegri verkaskiptingu" að kröfu Sovétríkjanna, eru austur-Evrópulöndin, Mongólska alþýðulýðveldið og Kúba, orðin að hálfnýlendum.

Eðli Comecon-samvinnunnar er orðið slíkt, að aðildarríkin geta ekki þróað óháð og alhliða eiginn efnahag. Þau eru þvinguð til að sérhæfa sig á ýmsum sviðum, og eru í víðtækum mæli orðin að verktökum fyrir hið aðkreppta efnahagskerfi endurskoðunarstefnunnar í Sovétríkjunum.

### Efnahagsleg samhæfing í Comecon

Árið 1971 hertu Sovétríkin tak sitt á austur-Evrópulöndunum með skipulagi fyrir "efnahagslega samhæfingu". Samkvæmt því á hvert land ekki aðeins að gera fimm-ára áætlanir, heldur skipulag til 15-2o ára í senn, í samvinnu við Sovétríkin, sem á þann hátt ræður miklu um efnahagslega skipulagningu í löndunum.

Hin "alþjóðlega verkaskipting" hefur alvarlegar afleiðingar í för með sér, ef viðkomandi lönd þurfa skyndilega að standa á eigin fótum efnahagslega. Þetta gæti gerst í stríði og myndi leiða til hruns í efnahagskerfinu.

T.d. framleiða Sovétríkin ein mikilvægustu hluti rafreikna, en nokkur Comeconlandanna framleiða aðeins varahluti og lítilvægari hluti. Ungverjaland hefur dregið úr framleiðslu dráttarvéla og flutningabíla til að auka við á öðrum sviðum. Vélaiðnaður Búlgaríu á samkvæmt áætlununum að afhenda Sovétríkjunum 6o% af framleiðslu sinni. Nokkrar búlgarskar verksmiðjur verða að láta Sovétríkjunum í té margskonar vélarhluta, sem svo eru settir saman þar og fluttir út aftur til Búlgaríu, sem þar með er orðin háð sovéskri framleiðslu.

Fjöldinn allur af hráefnum sem er að finna í austur-Evrópulöndunum eru á valdi Sovétríkjanna og eru unnin þar. Meir en 9o% af úranframleiðslu Tékkóslóvakíu, 94% tungspatframleiðslu Bulgaríu, 43% af zinkframleiðslu Póllands fara til Sovétríkjanna. Ungverjaland sem hefur næst mestu hráefnalindir af áli, hefur engann þróaðan áliðnað, heldur er bauxít flutt út í miklum mæli til Sovétríkjanna.

Enn ein aðferðin til að ná efnahagslegum yfirráðum yfir austur-Evrópulöndunum er að koma á fót sameiginlegum fyrirtækjum. Dæmigert fyrir þetta er optískt- efnafræðilegt fyrirtæki sem stofnað var af Sovétríkjunum og Austur-Þýskalandi, en með því gátu Sovétríkin hagnýtt sér þá háþróuðu þekkingu á þessu sviði, sem Austur-Þýskaland býr yfir.

### Sameiginlegar framkvæmdir til gagns fyrir Sovétríkin

Stórar fjölþjóðlegar framkvæmdir koma einnig inn á svið Comecons. Á 29. Comecon-fundinum í júní 1975 komu Sovétríkin með áætlun um slíkar framkvæmdir, sem eiga að verða í Sovétríkjunum 1976-80. Þessi stóra áætlun krefst þess að sum landanna verða að endurskoða fimmáraáætlanir sínar til að útvega peninga, vinnuafl og tæki. Eftir fyrirliggjandi upplýsingum krefst þessi áætlun fjárfestingar sem svarar til 15.5oo milljóna dollara.

Dæmi um þessar framkvæmdir er gasleiðslan frá Orenborg í Úralfjöllum til vestur-landamæra Sovétríkjanna. Búlgaría, Ungverjaland, Austur-Þýskaland, Pólland og Tékkóslóvakía taka þátt í þessum framkvæmdum með fjármagni og vinnuafli. Framkvæmdirnar hafa þann augljósa tilgang að útvega fjármagn til handa aðkrepptu efnahagskerfi Sovétríkjanna, samtímis því að gera þátttökulöndin enn háðari sovéskri orkuöflun.

### Geypigróði Sovétríkjanna

Sovétríkin hagnast mjög af þessu ósjálfstæði. Með verðhækkunum á t.d. olíu, sem seinast hækkaði um 13o-14o% skapa Sovétríkin mikið misræmi í samskiptunum sér í hag. Þetta skapar geypigróða til handa ríkjandi skrifræðiskapítalísku stéttinni í Sovétríkjunum, sem kemur ekki einungis fram sem heimsvaldasinnuð borgarastétt á hinu pólitíska og hernaðarlega sviði, heldur og á hinu efnahagslega. Þetta sést ekki aðeins af arðráni og yfirráðum Sovétríkjanna yfir sínum nánustu ný-nýlendu-leppríkjum í Comecon, heldur einnig í afstöðunni til 3. heimsins.

### Fjármagnsútflutningur til þriðja heimsins.

Reynt er að innlima löndin í þriðja heiminum með öllum ráðum í hina "alþjóðlegu verkaskiptingu" þar sem Sovétríkin eru allsráðandi. Með fjármagnsútflutningi, stofnun "sameignarfyrirtækja" og lánum er reynt að binda þriðja heiminn efnahagslega við Sovétríkin, og þar með pólitískt.

Á tímabilinu 1954-73 var fjármagnsútflutningur Sovétríkjanna 15.500 milljónir dollara. Kínverskar heimildir telja ennfremur að Sovétríkjunum hafi áskotnast 11,3 milljarðar frá löndum þriðja heimsins með ójafnri verslun við þau, á

## Sovétríkin í dag 3. grein



árunum 1955-73. Þetta gera Sovétríkin með því að selja dýrt vélar, tæknivörur og aðrar iðnaðarvörur á háu verði, en kaupa hráefni þriðja heimsins á mjög lágu verði.

Lán Sovétríkjanna eru venjulega með verri vaxtarkjörum til þriðja heimsins en lán vestrænna ríkja. 12 milljón punda lán til Bangla Desh 1974 frá Sovétríkjunum var með 4% vöxtum, en vestræn ríki krefjast hinsvegar aðeins 2,5% vaxta venjulega. Í þokkabót hika Sovétríkin ekki við að krefjast að lánið sé endurgreitt, þó svo að viðkomandi land eigi í miklum erfiðleikum.

### Skemmdarverk í frelsisbaráttu.

Risaveldapólitík Sovétríkjanna sést einnig í reynd í afstöðunni til þjóðlegra frelsishreyfinga. Sovésku leiðtogarnir reyna með öllum ráðum að bregða fæti fyrir þjóðfrelsisstríð og nota pólitískan og hernaðarlegan þrýsting, með því að reyna að koma á vopnahléum og með neitun um stuðning.

Þetta varð kambodísk alþýða að reyna í 5 ára langri baráttu sinni móti Lon Nol-stjórninni. Þá neituðu Sovétríkin stöðugt að styðja og viðurkenna þjóðfrelsisöflin. 1973 reyndu Sovétríkin að eyðileggja baráttu arabalandanna og palestínsku þjóðarinnar gegn Ísrael með því að beita hernaðarlegum og efnahagslegum þrýstingi á Egyptaland.

Á sjötta og sjöunda áratugnum var þessi pólitík afsökuð með því að "einn neisti gæti kveikt heimsbálið", og að lítil og staðbundin stríð hiklaust myndu leiða til heimsstyrjaldar. Þá höfðu Bandaríkin hreina yfirburði yfir Sovétríkin á hernaðarsviðinu.

Þessi söngur heyrist ekki eins mikið og áður, nú í seinni tíð. Vegna þess að Bandaríkin eru að tiltölu komin í varnarstöðu á heimsmælikvarða færa Sovétríkin sig nú upp á skaftið. Frá síðari hluta sjöunda áratugsins létu Sovétríkin sér ekki nægja pólitískar þvinganir, heldur gripu þau til beinna hernaðaraðgerða.

Árið 1968 réðust Sovétríkin á og hernámu Tékkóslovakíu; 1969 höfðu þau í frammi alls kyns hernaðarögranir á landamærum Kína; 1971 studdu þau árás Indlands á Pakistan, sem leiddi til skiptingar landsins; 1975 voru Sovétríkin viðstödd innlimun Sikkim í Indland og nú síðast hafa þau með "hernaðarráðgjöfum" og kúbönskum leiguliðum blandað sér hern-



Rússar í Tékkó '68

aðarlega í baráttuna í Angóla til að tryggja sér fótfestu þar.

### "Sameiginlegt varnarbandalag Asíu"

Sovétríkin hafa í mörg ár reynt að fá lönd Asíu til að mynda "sameiginlegt asískt varnarbandalag" og ná með því fótfestu meðal þeirra, og múra Kína inni, pólitískt og hernaðarlega.

Brésneff lagði þetta fyrst til í júní 1969, strax eftir landamæraögranirnar gegn Kína, og í sambandi við ósigur bandarísku heimsvaldastefnunnar í Indókína. Tómarúmið, sem samdráttur Bandaríkjanna þar hefði í för með sér, skyldi á þennan hátt fyllt Sovéskri yfirdrottnun. En lánið lék ekki við

Frh.bls.5

# EIK(m-l)

Námsstarf EIK(m-l) í marxlenínismanum er undirstaða baráttunnar!

LÁTIÐ SKRÁ YKKUR!

Skrifstofa og bókabúð EIK(m-l) er að Laugavegi 178, 2. hæð. Sími 84210.

Opnunartímar skrifstofu og bókabúðar EIK(m-l) að Laugavegi 178 hafa breyst. Þeir eru sem hér segir:
Miðvikudagar kl. 4-7
Föstudagar kl. 5-7






Slagorð sem félagar í KPD/ML máluðu á Berlínarmúrinn: NIÐUR MEÐ MÚRINN!




## Frásagnir þýskra kommúnista

# Fram til sameinaðs, sósialísks Þýskalands 3. grein

Hér birtist loks niðurlag frásagnar félaga okkar úr KPD/ML sem voru hér á ferð síðastliðið sumar.

Flokkurinn tekur þátt í baráttu verkafólks og annarrar vinnandi alþýðu. Ennfremur leiðir flokkurinn baráttuna þar sem hann hefur tækifæri til þess og útskýrir nauðsynina á vopnaðri sósíalískri byltingu.
Það er mikilvægt að sameina vinnandi alþýðu í baráttu gegn heimsvaldastefnu og leggja þá höfuðáherslu á baráttuna gegn báðum stærstu arðræningjunum, kúgurunum og stríðserindrekum þ.e. sovéska sósíalheimsvaldastefnan og bandaríska heimsvaldastefnan.
Þetta hefur sérstaka þýðingu fyrir þjóð okkar því hún er aðskilin, þ.e. vesturþýska Sambandslýðveldið annars vegar, hersetið af Bandaríkjaher sem styður við bakið á vesturþýsku einokunarauðherrunum og heimsvaldastefnu þeirra. Í austri eru hins vegar hersveitir sovésku sósíalheimsvaldastefnunnar.
Þessar hersveitir eru til fulltingis hinni nýju borgarastétt í Austur-Þýskalandi en sú stétt er einskonar "hreppstjórar" fyrir valdaklíkuna í Kreml.

Einungis með því að steypa af stóli heimsvaldastefnu vesturþýska einokunarauðvaldsins, reka úr landi bandaríska herliðið og koma á fót alræði öreiganna í Vestur-Þýskalandi - og sjá fyrir endalokin á sósíalfasísku einræði Kremlklíkunnar og "hreppstjóranna" þeirra, endurreisa alræði öreiganna í Austur-Þýskalandi. Sem sagt með sósíalískri byltingu í báðum ríkjunum náum við markmiði okkar.

### Endurskoðunarstefnan þjónar ríkjandi stétt.

Forsenda fyrir þessari baráttu er að brjóta á bak aftur nútíma endurskoðunarstefnu og flokk þeirra DKP sem með stéttasamvinnustefnu sinni halda verkalýðnum frá baráttu gegn heimsvaldastefnunni og á þann hátt greiða götu fasismans. Endurskoðunarsinnar eru því örgustu fjandmenn í röðum verkalýðshreyfingarinnar.

Í stuttu máli: Við höfum hafið byltingarsinnaða baráttu í V-Þýskalandi og verkalýðurinn er brátt það vel í stakkinn búinn að hann getur staðið frammi fyrir þýðingarmiklum verkefnum í baráttunni.

### Heimsvaldastefnan riðar til falls.

Að vísu lítur út fyrir það í dag að heimsvaldastefna borgaranna sé mjög sterk, en með heiftarlegum árásum sínum á baráttu verkalýðsins og annarrar vinnandi alþýðu á síðustu árum, sýnir borgarastéttin hræðslu sína og að það hriktir í veldi hennar. Við vitum að vegurinn framundan verður ekki greiðfær að hann verður langur og strangur, með mörgum farartálmum. Við vitum að valdastéttin mun einskis svífast til að hindra fall sitt. Við vitum líka að þýska verkalýðsstéttin með Kommúnistaflokkinn í broddi fylkingar, hinn eina marx-lenínska flokk verkalýðsins, mun sigrast á öllum erfiðleikum.
Í þessari baráttu mun verkalýðsstétt Þýskalands og KPDM/L standa við hlið íslenskrar alþýðu í baráttu hennar fyrir sósíalískri byltingu og gegn íslenska einokunarauðvaldinu, einokun Efnahagsbandalagsins og gegn báðum heimsvaldasinnuðu risaveldunum sem eru sameiginlegir óvinir okkar.

# Látið félaga okkar lausa

Víða um heim eru marx-lenínistar í fangelsum fasískra og afturhaldssinnaðra stjórnvalda. Sæta þeir hinni verstu meðferð og eiga dauðadóma yfir höfði sér fyrir það að berjast fyrir málstað verkalýðs og alþýðu. Eru þá upplognar sakir um alls kyns glæpi notaðar til að blekkja almenning sem sýnir kommúnistunum stuðning og samstarf.

Bræðrahreyfingar EIK(m-l) erlendis senda oft fréttir af félögum sem hafa fallið í viðureign við lið kúgaranna eða eru fangelsaðir. Fylgir þá jafnan beiðni um aðstoð þannig að íslenskir alþýðusinnar eru hvattir til að senda stuðningsyfirlýsingar til hreyfinganna eða kröfubréf um lausn hinna fangelsuðu til yfirvalda viðkomandi lands. VERKALÝÐSBLAÐIÐ birtir nú nöfn þriggja félaga sem þarfnast slíkrar aðstoðar:

GARY TYLER er ungur blökkumaður ranglega ákærður fyrir morð í átökum blökkumanna og lögreglu í suðurhluta Bandaríkjanna. Tyler á yfir höfði sér líflátsdóm, en mikil fjöldafylking krefst þess að hann verði látinn laus. Sendið stuðningsyfirlýsingar til:
THE CALL, P.O. Box 5597,
Chicago Ill. 60680, U.S.A.

MARIO ECHENIQUE er þekktur baráttumaður gegn ógnarstjórninni í Argentínu. Hann er fangelsaður fyrir pólitíska starfsemi, sakaður um að vera kommúnískur byltingarsinni og verður vafalaust dæmdur til dauða ef ekkert verður að gert. Sendið lausnarkröfu til:
Senor Presidente de la República del Argentina, Buenos Aires, Argentina.

MARGARITA BAEZ er ung hárgreiðslukona, félagi í MODEPA - Alþýðuhreyfingunni til varnar föðurlandinu - í Paraguay. Hún var handtekin 17. ágúst sl. og hefur sætt hroðalegum pyntingum í fangelsum herforingjastjórnarinnar, m.a. blinduð á báðum augum. Margarita var nýgift og gekk með barni er hún var handtekin á heimili vinkonu sinnar. Líf hennar er í hættu þar eð hún liggur nú á lögreglusjúkrahúsi og mun ekki þola neinar frekari pyntingar. Sendið lausnarkröfur til:
Senor Presidente de la Republica del Paraguay, general Alfredo Stroessner, Asuncion Paragauy og samtímis til Senor Dr. Alberto Nogués, ministro de Relacioner Exteriores, Asuncion Paraguay.



# Risaveldin eru höfuðóvinurinn

Á 7. þingi Flokks vinnunnar í Albaníu, sagði Enver Hoxha, leiðtogi albanskra kommúnista og alþýðu, meðal annars eftirfarandi um ástandið í heiminum í dag: "Höfuðóvinur sósíalismans og frelsis þjóða og óhæðis, stærsta aflið sem ver kúgunar- og arðránskerfi, og sem er bein hótun um að mannkynið sogist út í þriðju heimsstyrjöldina, það eru risaveldin tvö, Bandaríkin og Sovétríkin!

Enver lýsti í ræðu sinni hvernig andstæðurnar í heiminum skerptust með dýpkandi kreppu og keppni risaveldanna tveggja um heimsyfirráð, og einnig hvernig barátta verkalýðs og alþýðu eykst og styrkist: "Byltingin og þjóðleg frelsun alþýðunnar er ekki bara óskin og mál framtíðarinnar, heldur líka verkefni sem taka verður og leysa".

Um hættuna sem steðjar að vestur- og austurevrópu segir Enver, að Sovétríkin séu efst á blaði yfir líklega árásaraðila.

Enver lagði fram innlegg í umræður marx-lenínísku flokkanna um ástandið í heiminum, og byrjaði með því að kæfa bull vestrænna blaða um kólnandi sambúð Kína og Albaníu:

"Flokkur vinnunar í Albaníu og albönsk alþýða eru tryggir vinir og bandamenn KFK(kínverska kommúnistaflokksins, innsk. V. bl.) og alþýðu Kína. Alþýða og lönd okkar eru vopnabræður fyrir sömu hugsjón og innblásin af sama markmiði og alþjóðlegum verkefnum. Engar sögur eða fullyrðingar í vestrænum áróðri endurskoðunarsinna geta máð út hið marx-lenínska eðli og kraftinn í vinattu Albaníu og Kína".

Enver lýsti skoðunum albana á EBE, Efnahagsbandalagi Evrópu: "EBE er bandarísku heimsvalda-

Frh.bls.5

# Kína: Baráttan gegn fjórmenningunum er stéttabarátta

"Sagan hefir ætíð sýnt, að eftir dauða byltingarsinnaðra leiðtoga, sem nutu vinsælda meðal hinna kúguðu stétta, hafa óvinir þeirra reynt að nota nöfn þeirra í þeim tilgangi að blekkja hinar kúguðu stéttir". (Lenín: Heimsvaldastefnan og klofningur sósíalismans).

Nýjasta sönnun þessarrar skarpskyggnu athugunar Leníns er framferði fjögurra manna klíkunnar - Wang-Chang-Chiang-Yao - í Kína. Hópurinn reyndi að ná völdum yfir flokknum og ríkinu m.a. með því að falsa "dánarorð" Maos formanns, svohljóðandi: Starfið samkvæmt hinum ákveðnu kennisetningum. Þessi dánarorð notuðu þau svo til þess að stimpla hvern þann sem reyndi að benda á klofnings- og samsærisstarf þeirra, sem væri það að "mistúlka hinar ákveðnu kennisetningar". Fjórmenningarnir álitu sig einu handhafa rétts skilnings á þessum kennisetningum. Sannleikurinn um þessi svokölluðu "dánarorð" Maós er hins vegar sá, að í aprílmánuði skrifaði hann Hua Kuo-feng bréf, sem svar við skýrslu frá Hua, og sagði m.a. í því: "Með þig í fararbroddi er ég öruggur"og starfið samkvæmt okkar gömlu kennisetningum": Þar á hann við kennisetningar marx-lenínismans. Eftir dauða Maós í september, birtist svo þessi setning ummynduð sem síðasti boðskapur Maós til flokksins og alþýðunnar og sem allsherjar-stefna fyrir kínverska kommúnista og erlenda, að því er fjórmenningarnir sögðu. Enn fremur er athyglisvert, að þau reyndu ekki að koma þessu slagorði inn í tilkynningu miðstjórnar Kommúnistaflokksins (KFK) um andlát Maós, né heldur minningarræðuna sem Hua Kuo-feng hélt, heldur settu af stað áróðursherferð í fjölmiðlum, sem þau gátu notað vegna trúnaðarstarfa sinna.

### Löng barátta gegn fjórmenningunum.

Maó hefur sagt: "Ástundið marxisma, en ekki endurskoðunarstefnu; ástundið einingu en ekki sundrungu; ástundið hreinskilni og opinskáa umræðu, en ekki samsæri og baktjaldamakk". Þessi "þrjú boð og þrjú bönn" eru meðal mikilvægustu kennisetninga Maós. Engin furða er, þótt fjórmenningarnir hafi reynt að ýta þeim út í myrkrið og hampa eigin slagorði, því að sjálf brutu þau þessar reglur. Þau notuðu valdastöður sínar til hins ýtrasta. Þau breiddu út frægðarsögur af sjálfum sér, sérlega erlendis, og gáfu í skyn að þau hefðu verið helstu leiðtogar menningarbyltingarinnar. Þau byggðu upp sitt einka-valdakerfi innan flokksins og mynduðu flokk innan flokksins eins og Trotskí og fylgismenn hans gerðu í Sovétríkjunum á sínum tíma.

Maó hafði margoft varað fjórmenningana við röngum starfsaðferðum þeirra. Hann sagði: "Myndið ekki fjögurra manna klíku" og "verið ekki alltaf fjögur - sameinist hinum 200 meðlimum miðstjórnar". Hann ávítaði Chiang Ching fyrir óstjórnlega metnaðargirni og fyrir að vanrækja nám í marxismanum.

### Röng mynd á Vesturlöndum.

Hér á Vesturlöndum er fjórmenningunum gjarnan stillt upp sem "vinstri-armi" og látið í veðri vaka, að sigrar menningarbyltingarinnar hafi glatast með þeim. Við skulum heyra hvað sænski Kínasérfræðingurinn Jan Myrdal hefur um þetta að segja, en hann er nýkominn frá hálfs árs dvöl í Kína. Í viðtali við Klassekampen í Noregi segir hann m.a., að hér sé alls ekki um byltingarsinna að ræða. Pólitík fjórmenninganna minni í mörgu fremur á hálfgerða stjórnleysingahópa á Vesturlöndum með róttæku yfirbragði (Fylkingin, KSMLb, klíka Kristjáns Guðlaugssonar og fleiri álíka). Með öðrum orðum, að umbúðir þessara klíka séu með róttæku yfirbragði, en gagnbyltingarsinnuð að inntaki. Í menningarbyltingunni stóðu t.d. fjórmenningarnir að baki hugmyndum sem gengu út á að allir leiðandi menn væru slæmir og ætti að berjast gegn þeim og settu því fram ýkta og falsaða móthverfu á milli leiðtoga og fjöldans. Í iðnaðinum settu þau fram slagorðið "stjórnmála umræðan gengur ætíð fyrir", sem almennt séð er rétt, en leiddi til þess að allur tíminn fór í umræður - framleiðslan hrapaði niður úr öllu valdi. Slík pólitík er fjandsamleg fjöldanum, en engin "vinstristefna". Baráttuna gegn einstaklingssamkeppninni og framagræðginni notuðu þau til að berjast gegn hvers kyns prófun í skólakerfinu. "Byltingarsinnar þurfa engin próf", sögðu þau. En þetta þjónar augljóslega letingjum, en ekki raunverulegum byltingarsinnum.

Pólitík fjórmenninganna varð aldrei útbreidd - hin ráðandi lína var samkvæmt kenningu Maós. En þau byggðu upp sín einkaumdæmi á vissum sviðum, þar sem þau höfðu völd og áhrif, s.s. í áróðurs- og menningarmálum.

Jan Myrdal lagði á það áherslu að yfirgnæfandi meirihluti fólksins hefði fyllst létti og fögnuði þegar fjórmenningarnir voru handteknir og starfsemi þeirra stöðvuð.

### Fjölmiðlarnir afneita stéttabaráttunni.

Í fjölmiðlum hér á landi hafa heyrst margar kynlegar fréttir um þessa atburði. Fyrir utan það að fjórmenningarnir eru gerðir að ímynd hins róttæka hugsjónafólks og Hua Kuo-feng sem hægfara "miðju-manni", er litið á öll þessi átök sem valdabaráttu innan fámennrar toppklíku og hinn mikli fjöldi kínverskra verkamanna, bænda og menntamanna svívirtur með því að lýsa honum sem sljórri strengbrúðu sem dansi með "sigurvegaranum" hverju sinni. E.t.v. er þetta ekki óeðlilegt túlkun af hálfu manna sem afneita stéttabaráttunni sem hreyfiafli sögunnar. Kínverskt þjóðfélag verður ekki skilin nema út frá stéttabaráttunni, baráttunni á milli borgara og öreiga og hinu sérstaka formi þessarar baráttu í sósíalismanum. Sósíalisminn er engin paradís, hann er millistig á milli kapítalisma og kommunisma, umbyltingin sem tekur yfir langt tímaskeið og hefir í för með sér langa og harðvítuga baráttu.

### Þjóðviljinn og Kína.

Athyglisvert er, að Þjóðviljinn "málgagn sósíalisma" er engin undantekning hvað snertir fréttaflutning frá Kína. Það er samviskulega japlað á tuggunni frá Reuter og co. Annað er uppi á teningunum þegar Þjóðviljinn skrifar um hinar fasísku ofsóknir á hendur andstöðufólki í Sovétríkjunum. Þá er hjalað um "vandamál frelsis og kúgunar, vandamál einstaklingsins í samskiptum við ríkið í sósíalísku löndunum. (þ.e. í Austur-Evrópulöndunum.) Þessi mismunandi fréttaflutningur sýnir best, að bandalagið þykist hlutlaust og "gagnrýnið" bæði á Kína og Sovétríkin, styðja þau í raun Sovétríkin en svo ... Kína, svo sem háttur endurskoðunarsinna er um víða veröld.

# NÁMSHORN

## Grein eftir V.I. LENIN



"Um þessar mundir teljum við að mikilvægasta vandamálið sé fólgið í starfrænni virkni sósíaldemókrata (nafn á kommúnistum í Rússlandi á þessum tíma - Vbl.).

Við leggjum áherslu á starfrænu hliðina vegna þess að erfiðasti hjallinn í fræðilegu starfi er að baki - hjallinn sem einkenndist af afneitun á því að skilja stefnuna, af viðamiklum tilraunum þeirra til að kæfa hana í fæðingu og af harðvítugri baráttu okkar til varnar grundvallaratriðum sósíal-demókratismans (þ.e. kommúnismans - aths. Vbl.). Nú hafa helstu grundvallaratriði fræðikenningar sósíaldemókratismans verið skýrð nægilega. Sama er ekki unnt að segja um starfræna hlið stefnunnar, um pólitíska stefnuskrá, starfsaðferðir okkar og baráttuaðferðir. Það er á þessu sviði sem rangtúlkanir og gagnkvæmur misskilningur er lífseigastur,, - hann stendur í vegi fyrir sameiningu sósíal-demókrata og þeirra byltingarsinna sem hafa afneitað í orði stefnu Narodnaya Volja (smáborgaraleg lýðræðishreyfing, ein tegund þeirra tíma endurskoðunarstefnu, - aths. Vbl.)".

"Markmiðið með starfi sósíaldemókrata er, eins og allir vita, að leiða stéttabaráttu

Úrdráttur úr grein Lenins um verkefni kommúnista er hér fer á eftir er góð uppspretta þekkingar á hlutverki kommúnista sem kjarnans í alþýðubaráttunni. Ekki ber þó svo að skilja, að greinin eigi nákvæmlega við Ísland, því við höfum enn ekki náð þessum erfiða hjalla sem Lenín nefnir svo - þ.e. að tryggja að grundvallaratriði marx-lenínismans séu nægilega skýrð og hafi brotist í gegn um hentistefnu og falsmarxisma. Þar með er höfuðverkefni vort <u>ekki enn</u> orðið baráttuáróður, heldur svonefndur stjórnlistaráróður - sem er upplýsingamiðlun um grundvallaratriði marx-lenínismans og kommúnískrar baráttustefnu við íslenskar aðstæður. Sameiningargrundvöllur Einingarsamtaka kommúnista (m-l) (fylgirit með 8. tbl. Verkalýðsblaðsins) er eitt helsta framlag okkar í þessu starfi. En samhliða stjórnlistaráróðri fer alltaf baráttuáróður og grein þessi lýsir ljóslega hvert innihald er í þessum tveimur þáttum baráttunnar og hvernig áhersluskipanin á þá breytist þegar hinn "erfiði hjalli" er að baki.

Svonefndur Kommúnistaflokkur Íslands (m-l) telur sig nú hafa náð "erfiða hjallanum" (sem er rangt) og veður nú reyk með rangt verkefni fyrir augum - að smíða fjöldahreyfingu án undirstöðu. Grein þessi glefsar rækilega í hæl KFÍ/ML, sem fetar fyrri leiðir forverans - KSML - með því að falsa marxismann. Flokkur þessi stundar klofningsstarfsemi í röðum verkafólks með því að láta í það skína, að verkalýður sé einungis það sem fólk sem stundar beina framleiðslu (t.d. verksmiðju- og flutningaverkafólk). Í greininni hæðist Lenín að slíkum borgaralegum hégiljum, sem í raun þjóna aðeins auðstéttinni.

# Stjórnlist og baráttuaróður

öreigastéttarinnar og skipuleggja þá baráttu í tveimur birtingarmyndum hennar: sósíalískri (þ.e. baráttu gegn auðstéttinni, er miði að því að rústa stéttarveldið og skipuleggja sósíalískt þjóðfélag) og lýðræðislegri (baráttu gegn alræðinu til að ná fram pólitísku frelsi í Rússlandi og gera stjórnmála- og þjóðfélagskerfið lýðræðislegra)".

"Látum okkur líta fyrst á sósíalíska þáttinn. Menn gætu haldið að eðli sósíal-demókratísks starfs á þessu sviði mætti ljóst vera frá því er hin sósíal-demókratísku samtök til frelsunar verkalýðs hófu störf í Pétursborg. Sósíalísk barátta rússneskra sósíal-demókrata er fólgin í því að dreifa sem <u>stjórnlistaráróðri</u> (propaganda) fræðikenningu hins vísindalega sósíalisma. Með öðrum orðum: efla meðal verkalýðs réttan skilning á núverandi efnahags- og þjóðfélagskerfi, grundvöll þess og þróun, skilning á ýmsum <u>stéttum</u> í rússnesku þjóðfélagi, á tengslum þeirra, á baráttunni milli þessara stétta, á hlutverki verkalýðsstéttarinnar í baráttunni, á viðhorfi hans gagnvart hverfandi og vaxandi stéttum, á fortíð og framtíð kapítalismans, skilning á sögulegu hlutverki hins alþjóðlega sósíal-demókratisma og rússneska verkalýðsins. Baráttuáróður (agitation) meðal verkalýðsins er órjúfanlega tengdur stjórnlistaráróðrinum. Baráttuáróður er auðvitað mikilvægastur við núverandi stjórnmálaástand í Rússlandi og við núverandi ástand meðal þorra verkalýðs.

Baráttuáróður meðal verkalýðs táknar, að sósíaldemókratar taka þátt í öllum sjálfsprottnum baráttuaðgerðum verkalýðsstéttarinnar, í öllum átökum milli verkalýðs og auðherra vegna lengdar vinnudags, launa, vinnuskilyrða osfrv. Verkefni okkar er að tengja störf okkar við starfræn vandamál öreigalýðsins, til að aðstoða verkafólk við að skilja vandamálin, til að beina athygli verkalýðs að mestu vanköntunum, til að aðstoða hann við að setja fram kröfur á hendur atvinnurekendum á nákvæmari og hlutlægari hátt en áður, til að þróa samstöðu meðal verkafólks, meðvitund um sameiginlega hagsmuni og sameiginlegan málstað alls rússnesks verkalýðs sem sameinaðrar stéttar og hluta af alþjóðaher öreiganna.

Í stuttu yfirliti má segja að sósíalískt starf rússneskra sósíal-demókrata birtist á eftirfarandi hátt:

Skipulagning námshringja meðal verkafólks, að koma á fót beinum og leynilegum tengslum milli þeirra og miðhóps sósíaldemókrata, að gefa út og dreifa bókmenntum verkalýðs að skipuleggja móttöku orðsendinga frá öllum miðstöðvum verkalýðshreyfingarinnar, að gefa út áróðursrit og yfirlýsingar, dreifa slíku og þjálfa hóp reyndra áróðursmanna.

Starf okkar beinist fyrst og fremst að verksmiðjufólki borganna. Rússneskir sósíal-demókratar mega ekki dreifa kröftum sínum. Þeir verða að beina störfum sínum að iðnaðaröreigunum, sem eru best móttækilegir fyrir sósíal-demókratískum hugmyndum og á hæsta hugmyndafræðilega og pólitíska stiginu og mikilvægastir vegna fjölda og samþjöppunar í stærstu stjórnmálakjörnum landsins. Uppbygging sterkra byltingarsamtaka meðal verksmiðjuverkafólks í borgunum er þess vegna fyrsta og mikilvægasta verkefni sósíaldemókrata. Þetta starf er þess eðlis, að alrangt væri að hverfa frá því á þessu stigi. En í sömu mund og við viðurkennum nauðsyn á því að beina kröftum okkar að verksmiðjuöreigunum og standa gegn því af dreifa kröftum okkar, þá látum við ekki á nokkurn hátt í það skína að rússneskir sósíal-demókratar eigi að líta fram hjá öðrum hópum rússneskra öreiga og verkalýðsstéttar. Á engan hátt. Raunveruleg lífsskilyrði rússnesks verksmiðjufólks neyða það oft til þess að tengjast nánum böndum handverkafólki og iðnaðaröreigum utan verksmiðjanna í bæjum og þorpum, sem lifa jafnvel verra lífi en þeir".

(Úrdrættir úr greininni "Verkefni rússneskra sósíaldemókrata" - safnrit nr. 2 bls. 327-342).

# „KFÍ/ML" í upplausn

Frh.af forsíðu

samtök. Þau voru yfir sig róttækur sundrungarhópur, sem hefur neyðst til að viðurkenna að stefna í helstu baráttumálum hafi verið alröng (sjá bréf KSML í Rauðliðanum, tímariti EIK(m-l) nr. 2 '76). Það dugðu hvorki "kommúnískar" yfirlýsingar né sífelldar andlitssnyrtingar til að fela sannleikann.

Vegna þessa og þróunar Fylkingararinnar var nauðsynlegt að stofna EIK(m-l) fyrir réttum tveimur árum. Með þeim hófst baráttan fyrir nýjum stjórnmálaflokki verkalýðsins - kommúnistaflokknum - á nýtt stig.

Andstæður milli KSML og EIK(m-l) voru um margt, bæði stefnu og starfsaðferðir. Dæmi um slíkt er afstaðan til stétta þjóðfélagsins þar sem KSML gerði skrifstofu- og afgreiðslufólk að hóp <u>utan</u> verkalýðsstéttarinnar (öreiganna) eða þá lýðræði innan samtakanna þar sem forysta KSML keyrði lið sitt áfram án umræðna um ágreining. KSML notuðu svo samfylkingar til auglýsinga á sjálfum sér í stað baráttu.
Um leið og KSML réðust að "smáhópnum" EIK(m-l) fyrir að "kljúfa kommúnísku hreyfinguna", tóku þau upp mörg stefnuatriði EIK(m-l) til að fegra andlit sitt og rjúfa einangrun sína. En aldrei fylgdi gagnrýni á fyrra starf og stefnu, nema í 2-3 málum. EIK(m-l) sýndu ávallt fram á að KSML höfðu ekki verið marx-lenínísk frá stofnun og þar eð sjálfsgagnrýni væri mælikvarði á úrbætur úr því, yrðu samtökin ekki kommúnísk nema viðurkenna þetta.

<u>Sameining eða ekki.</u>

Meðan sameiningarstefna EIK(m-l) fólst í því að reyna að vinna með KSML í samfylkingum og setja skilyrði fyrir samstöðu um grundvallaratriði marx-lenínismans, skipulagsins og baráttuaðferðar fyrir sameiningunni, vann KSML að sameiningu, sameiningar vegna. Hræra átti samtökunum saman í "flokk" á degi sem KSML ákvað. Umræður milli fulltrúa samtakanna sýndu að forysta KSML stefndi í raun hvorki að stofnun kommúnistaflokks né einingu, heldur því að koma í veg fyrir áframhaldandi sókn EIK (m-l) og marx-lenínismans. Meðan á bréfaskiptum um einingu stóð, sagði forysta KSML félögum að sameining kæmi ekki til greina og uppræta þyrfti slíkar hugmyndir!

Flokkur KSML - "KFÍ/ML" - hvíldi á sömu stefnu og KSML í meginatriðum og var því helst nafnbreyting á samtökunum. Stefna EIK(m-l) gagnvart honum var sú sama og áður var. EIK(m-l) lögðu fram meginatriði marx-lenínismans við íslenskar aðstæður í ritinu '"Sameiningargrundvöllur marx-lenínista" sem undirstöðu sameiningar EIK(m-l) og "KFÍ/ML". Flokkurinn svaraði honum aldrei, en stimplaði hann sem sundrungarplagg. Þá varð ljóst að "KFÍ/ML" getur aldrei sem heild orðið marx-lenínísk samtök. Hann er og verður sundrungarhópur.

<u>Verkin tala.</u>

Pólitísk skoðanabarátta EIK(m-l) gegn "KFÍ/ML" var og er nauðsynlegur liður í að brjótast í gegnum þann vítahring henti- og endurskoðunarstefnu, sem hefur hamlað árangursríkri baráttu verkalýðs og alþýðu. Stundum tala verkin betur en mörg orð. Sýnir starf "KFÍ/ML" ekki að barátta EIK(m-l) er og var réttmæt? Jú svo sannarlega.
<u>Í verkalýðsmálum</u> hefur "KFÍ/ML" setið sem næst auðum höndum og hafnað samfylkingartilboði EIK(m-l) um baráttu gegn nýju vinnumálalöggjöfinni.
<u>Rauð æska</u> hefur nær lognast útaf vegna hentistefnu og reikanda margra félaga "KFÍ/ML" þar.
<u>Í landhelgismálinu</u> gerði "KFÍ/ML" ekkert og sniðgengur Landhelgissamtökin.
<u>Í Samtökum herstöðvaandstæðinga</u> brást flokkurinn á stofnfundi samtakanna, er hann lét baráttu fyrir því að upp væri tekin virk andstaða gegn ásælni hinna nýju keisara í Kreml, falla niður.
<u>Á 1. maí</u>, notaði "KFÍ/ML" samfylkingu með mögum öðrum samtökum til að auglýsa sig á alla lund.
<u>Í mjólkurbúða- og dagvistunarbaráttunni</u> hefur flokkurinn sem slíkur ekki lagt neitt starf af mörkum. Flokkurinn hundsaði baráttufund með fulltrúum PAC í Azaníu (S-Afríku) þó svo hann væri aðili að samfylkingunni. Rétt áður hafði forysta flokksins neitað samvinnu við EIK(m-l) til að mótmæla innrásinni í Tékkóslóvakíu.
Stéttabaráttan selst afar lítið í lausasölu, skuldir hlaðast upp og virkni almennra félaga snarminnkar.

Slík eru verk "forystuflokksins" sem í raun er fúafenið eitt.

<u>Barátta tveggja stefna - sigur</u>

Á síðari árum KSML tók að bera á verkalýðssinnaðri afstöðu einstaklinga í samtökunum. Þannig hófst langvinn barátta fólks er nálgaðist marx-lenínismann og svo eindurskoðunarstefnunnar. Sá falsmarxismi var ávallt ríkjandi þrátt fyrir síhvassari andstæður. Aðal aflgjafi baráttu marx-lenínista og framsækins fólks innan KSML og síðar "KFÍ/ML" var <u>tilvist, stefna og afstaða EIK(m-l).</u>
Sú staðhæfing rýrir á engan hátt framlag félaganna sjálfa í "KFÍ/ML".
Nú hafa nokkrir forystumanna "KFÍ/ML" og almennir félagar sagt sig úr flokknum. Stefnt er að uppgjöri við endurskoðunar- og hentistefnu hans. Munu þá fleiri félagar fylgja í kjölfar hinna. Þessir mikilvægu atburðir tákna ekki sigur skemmdarverkamannanna heldur sigur marx-lenínismans, þó svo flokksrekaldið standi enn um hríð. Þeir tákna framsókn hinna kommúnísku afla og pólitískt andlát hluta afturhaldshreyfingarinnar sem stendur baráttu verkafólks og alþýðu fyrir þrifum.

<u>Eflum starf EIK(m-l).</u>

EIK(m-l) fagna sigri sameiningaafla hreyfingarinnar. Upplausn "KFÍ/ML" setur mönnum í raun ákveðna kosti. EIK(m-l) verða að efla starf sitt, fyrrverandi félagar úr "KFÍ/ML" verða að ganga í EIK(m-l) og leggja sitt af mörkum til uppbyggingar raunverulegs kommúnistaflokks og margir óháðir samherjar verða að taka afstöðu til málanna. Við þá sem gagnast vilja alþýðunni og enn eru í "KFÍ/ML" segjum við: - "KFÍ/ML" er óþurftarklíka, berjist gegn henti- og endurskoðunarstefnunni og gangið úr "KFÍ/ML" til liðs við hin kommúnísku samtök. Við "KFÍ/ML" sem heild segjum við: - Hvorki eining né samvinna við "KFÍ/ML" kemur til greina. "KFÍ/ML" veit um sameiningargrundvöll EIK(m-l) og getur annað hvort afneitað honum sem hingað til eða breytt þeirri afstöðu sinni.

# RISAVELDIN...

Frh.af bls.3

sinnunum, eins og COMECON Efnahagsbandalag austur-evrópuríkja er sósíalheimsvaldasinnum, hluti heillar keðju hernaðarlegra, pólitískra og efnahagslegra, menningarlegra og annarra stofnana, sem eru helstu vopn risaveldanna gegn alþýðunni. EBE er breiðfylking einokunarauðherra og auðhringja til að arðræna alþýðu Evrópu og heimsins. EBE er stórt ný-nýlenduveldi sem nær út um allan heim, og það teflir ekki aðeins við risaveldin um arðrán á þróunarlöndunum, heldur reynir og að viðhalda forréttindum gömlu nýlenduveldanna í þessum löndum.

Þó að Bandaríkin séu ekki opinberir aðilar að EBE leika þau stórt hlutverk í EBE, því þau hafa brætt saman fjármagn sitt og innlent fjármagn í hverju meðlimaríki EBE. Bandaríkin hafa haft og hafa enn volduga vörn gegn sósíalheimsvaldablökkinni í EBE. Ásamt NATO er EBE skipulögð stöð og sóknarsvæði fyrir bandarísku heimsvaldastefnuna í keppni hennar við hitt heimsveldið hin endurskoðunarsinnuðu Sovétríki.

Enver lagði einnig áherslu á að andstæðurnar milli hinna vestrænu ríkja ykjust undan þrýstingi og aðgerðum Sovétblakkarinnar:
"Vegna þessarar keppni reyna Bandaríkin að hindra EBE í því að stækka og styrkjast, þau spila með hvert ríki um sig og etja þeim saman. Fyrir utan það að undiroka máttlitlu ríkin, leggja Bandaríkin sig í líma við að hindra nánari samvinnu Þýskalands og Frakklands með því að veikja Frakkland og styðja V-Þýskaland og Stóra-Bretland.

Enver talaði einnig um þróunarlöndin og sagði að í langflestum þessara landa væru stéttir með andstæða hagsmuni, arðrán og ríkjandi borgarastétt.

Samtímis skýrði hann frá því að Albanía styddi baráttu landa Asíu, Afríku og S-Ameríku fyrir yfirráðarétti yfir eigin auðlindum, fyrir réttlæti og jöfnuði í heimsviðskiptum. Þetta er "nýtt byltingarsinnað ferli, sem ekkert afl fær stöðvað."

# SOVÉTRÍKIN...

Frh.af bls.4

Sovétríkin. Að vísu hafa þau hnýtt Indlandi í heimsvaldahala sinn, en nánar verður komið að því síðar. En Sovésk- indverski samningurinn 1971, sem átti að vera "fyrsti steinninn í öryggis hús Asíu" náði ekki fram á öðrum sviðum. Það kom nefnilega í ljós að Sovétríkin voru ekki sein á sér að nota "friðar-,öryggis- og vináttusáttmálann" við Indland til að styðja hinar miklu hernaðarárásir Indverja á Pakistan 1971. Það varð deginum ljósara að allt masið um "sameiginlegt öryggi" var aðeins skálkaskjól fyrir sovéska útþenslu.

<u>Tvöföld baráttuaðferð Sovétríkjanna</u>

Sovésku herrarnir hafa hafnað samkvæmt asíupólitík sinni að styðja tillögu Sri Lanka um að Indlandshaf verði gert að friðarsvæði, og hafa við mörg tækifæri ekki greitt atkvæði hjá Sameinuðu þjóðunum þegar þetta mál hefur borið á góma.

Tillagan um að suðaustur-asía verði gerð hlutlaus, sem var lögð fram af ASEAN, samtökum suðaustur-asíuríkja, í Kuala Lumpur 1971 hefur einnig orðið fyrir árásum sovétmanna.

Árið 1973 skiptu Sovétríkin um baráttuaðferð gagnvart þessum tillögum er þær nutu vaxandi fylgis í Asíu. Þau byrjuðu að tala um að til væru sameiginlegir snertipunktar milli tillagnanna og "sameiginlega asíska varnarbandalagsins" en þrátt fyrir það hafa tillögur sovétherranna ekki fengið hljómgrunn. Í ræðu Brésneffs á nýloknu 25. flokksþinginu í Sovétríkjunum voru þessi mistök mörkuð með því að hann minntist ekki á hið "sameiginlega asíska varnarbandalag".

VERKALÝÐS-BLAÐIÐ
ARÐRÆNDIR OG KÚGAÐIR ALLRA LANDA SAMEINIST!

**Málgagn EIK(m-l)**

Ábyrgðarmaður: Albert Einarsson

LAUGAVEGI 178, 2. HÆÐ
POSTHÓLF 5186, REYKJAVÍK
SÍMI 84210 - 35904



# Kjarasamningum verði sagt upp sem fyrst!

Á ASÍ-þinginu í nóvember lögðu hagspegúlantar fram bunka línurita og upplýsinga sem sýndu það svart á hvítu, að kaupmáttur launa rýrnar stöðugt og kjör öll stórversna. Síðan þetta varð, hafa ótal hækkanir dunið yfir og öll "rauðu strikin" frá síðustu kjarasamningum hafa reynst einskis nýt. Þau voru enda í upphafi hugsuð til þess eins að blekkja almenning til fylgis við svikasamningana sem forystulið ASÍ og atvinnurekenda bræddu saman.

Reynslan kennir okkur að núverandi forysta í verkalýðshreyfingunni og stjórn ASÍ mun ekki beita sér fyrir sóknarbaráttu fyrir kjarabótum og baráttueiningu verkafólks og baráttuvirkni. ASÍ-þingið átti að leggja baráttulínuna fyrir verkafólk á Íslandi, enda er ASÍ jú heildarsamtök verkalýðsins. Í stað þess voru samþykktar alls kyns sambræðsluályktanir, þar sem "sjónarmið allra voru látin koma fram", eins og Björn Jónsson kallaði það í viðtali, og borgaralegu flokkarnir reyndu hver um sig að skara eld að sinni köku og bítast um embætti og bitlinga. Verkafólk er að finna í öllum borgaralegu flokkunum og m.a. þannig tekst borgarastéttinni að viðhalda sundrungu innan verkalýðsins og etja hópum hennar saman. Alþýðubandalagið og Alþýðuflokkurinn taka fullan þátt í þessari sundrunarstarfssemi í verkalýðshreyfingunni. Þessa tvo flokka höfum við nefnt borgaralega verkalýðsflokka: borgaralega vegna þess að forysta þeirra og uppbygging styður beinlínis auðvaldsskipulagið; verkalýðsflokka vegna þess að þeir eru atkvæðalega og áróðurslega bornir uppi af verkafólki og vinnandi alþýðu. Raunverulegur verkalýðsflokkur er sá flokkur sem berst einarðlega í þágu verkalýðs og alþýðu og er hluti verkalýðsstéttarinnar sjálfrar. Borgaralegu flokkarnir eru hins vegar hluti stjórnkerfis auðvaldsríkisins. Stefna raunverulegs verkalýðsflokks er andstæð borgaralegu verkalýðsflokkunum, en innan þeirra er hins vegar að finna marga góða baráttumenn sem kommúnísk hreyfing verður vissulega að vinna á sitt band.

Raunverulegur verkalýðsflokkur er kommúnistaflokkur og hann verður aðeins byggður upp í kring um og með baráttu verkalýðs og er vopn hans og eign. Einingarsamtök kommúnista (marx-lenínista) hafa sett sér sem mark að vinna að uppbyggingu raunverulegs verkalýðsflokks - marx-lenínísks kommúnistaflokks.

100 þús. í lágmarkslaun!

En nú kunna margir að spyrja sem svo: Ef ASÍ á ekki að hafa frumkvæði að baráttu gegn kjaraskerðingunni, hver á þá að gera það? Jú, við segjum óhikað að frumkvæðið verði að koma að neðan, frá fólkinu sjálfu og að baráttan verði að vera háð í andstöðu við helstu forkólfa verkalýðshreyfingarinnar.

Einingarsamtök kommúnista (marx-lenínista) munu stuðla að stofnun samstarfsnefndar til að hefja þegar í stað undirbúning að komandi kjarabaráttu og öðrum málefnum verkalýðs og alþýðu. Samtökin munu leggja áherslu á eftirtalin atriði í verkalýðsbaráttunni á næstunni:

1. Baráttu gegn frumvarpi um stéttarfélög og vinnudeilur og gegn frumvarpi um tekju- og eignaskatt. Brýna nauðsyn ber til að hefja skipulagða baráttu gegn því.

2. Að kjarasamningum verði sagt upp sem fyrst og að þegar verði hafist handa um mótun kjarakrafna. Að lágmarkslaun fyrir dagvinnu verði alls ekki lægri en 100 þús. kr. á mánuði og komi sú hækkun öll í einu. Kaup verði vísitölubundið og komi hækkun sem jöfn krónutala á öll laun og verði miðað við hækkun framfærslukostnaðar.

3. Að lýðræði verði aukið í verkalýðshreyfingunni, þannig að valdið sé ekki dregið saman í höndum ASÍ-broddanna. Reynslan hefur sýnt, að útkoman úr kjarasamningum er mun verri eftir að samningsvaldið sem ASÍ hefur var aukið svo mjög sem raun ber vitni.

4. Baráttu gegn atvinnuleysi og uppsögnum. Atvinnuleysi er nú þegar orðið afar mikið á mörgum stöðum, ekki síst í ýmsum þorpum úti á landi (t.d. eru 84 á atvinnuleysisskrá á Vopnafirði). Þá er dulið atvinnuleysi mikið - þ.e. nætur- og eftirvinna er skorin niður og þar með bíður margra alþýðuheimila hreint gjaldþrot. Þá er mikilvægt að berjast gegn þeirri pólitík auðvaldsins að leggja heilar starfsgreinar niður, þegar hægt er að auka með því gróðann. Er skemmst að minnast baráttu afgreiðslukvenna í brauða- og mjólkurbúðum fyrir tilveru starfsstéttar sinnar, baráttu röntgentækna fyrir því sama og fleiri dæmi mætti sjálfsagt nefna.



EINING Á GRUNVELLI STÉTTABARÁTTUNNAR!

# Gegndarlaus vinnuþrælkun til sveita

Verkalýðsblaðið hefur gert nokkra útreikninga á hinni gegndarlausu vinnuþrælkun sem fram fer meðal fólks í sveitum landsins og einnig tekið til samanburðar meðaltöl fyrir laun bænda og verkafólks í sveitum. Tölur þessar eru byggðar á skýrslum 180 bænda sem sent hafa inn skýrslur til Búreikningastofnunar landbúnaðarins fyrir árið 1975. Tekið var meðaltal af niðurstöðum, þannig að tölurnar miðast við bú af meðalstærð, þeirri stærð sem er langalgengust á Íslandi.

Fram kemur í samantekt þessari, að á meðalbúinu reyndist framlögð vinna allra að meðaltali 5.051 klst. eða 13,8 klst. á hverjum og einum degi ársins! Meðalvinna á bónda við búið reyndist tæpar 3.000 klst. eða 8,2 klst. á hvern dag ársins, vinna húsmæðra reyndist 750 klst. eða rúmar 2 klst. á dag, (hér er eingöngu átt við beina þátttöku húsmæðra í bústörfunum, en húsmóðurstarfið er undanskilið. Þannig má sjá hversu gífurlegt vinnuálag er á sveitakonum). Einnig kemur í ljós , að unglingar og börn á sveitaheimilum leggja að mörkum mikla vinnu við búskapinn.

Tekjur

Samkvæmt búreikningi 130 sveitaheimila reyndust meðalfjölskyldutekjur af landbúnaði 1.231.925 kr. og höfðu þá hækkað um 22% frá síðasta ári. Framleiðslukostnaður var um 2,3 milljónir - hafði hækkað um 54%, en framleiðslutekjur um 3,6 milljónir - höfðu hækkað um 41%. Þannig er hægt að sjá, að fjölskyldutekjur á vinnustund voru á síðasta ári kr. 307, en þær voru aðeins 359 krónur á vinnustund á hreinum kúabúum. Tekjur af öðru en landbúnaði voru að meðaltali um 126 þúsund og fer sá hluti vaxandi af heildartekjum sveitaheimila.

Það sem hér að framan er greint frá, segir okkur að til sveita er almenn vinnuþrælkun og kauprán mikið. Hundruð fjölskyldna í sveitum eiga nú í vaxandi erfiðleikum með að komast af, þar sem rauntekjur fara síminnkandi ár frá ári. Því er það að margir hafa lagt það á sig að leita vinnu utan heimilisins og eykur það auðvitað enn á þrældóminn. Hingað til hefur engin skipulögð barátta smá- og meðalbænda á Íslandi farið fram gegn stefnu ríkisvalds, SÍS og broddanna í bændasamtökunum. Sú stefna byggir á því, að fækka búum og stækka þau sem eftir eru - auka framleiðnina í greininni. Þetta er auðvitað "hagkvæmari" lausn fyrir gróðaþyrsta SÍS-mafíuna, sem arðrænir sveitaalþýðuna gengdarlaust.

Lagðar línur fyrir eyðingu byggðar í sveitum

Nú nýverið hefur litið dagsins ljós skýrsla, samin af fáeinum útvöldum gæðingum og halakleprum ríkisvaldsins og SÍS, um "þróun landbúnaðar og spá um þróun fram til 1985". Þeir sem að skýrslu þessari unnu, hafa væntanlega fengið það verkefni í hendur, að klæða hugmyndir SÍS og ríkisvaldsins um þróunina í "vísindalegan" búning, þannig að betur liti út. Hvað um það, skýrslan er ein harkalegasta árás á smábændur og framleiðendur á meðalstórum búum sem um getur. Lagt er til að stefnt skuli að stóraukningu framleiðslu landbúnaðarins með lækkun á vinnu- og fjármagnsþörf á hverja einingu með "aukinni hagræðingu og tæknibeitingu, bæði við búskap og hjá vinnslustöðvum". Þessi leið mun leiða til þess að bú munu stækka og sérhæfing aukast, auk þess sem "leysist úr læðingi kraftur sem kemur fram í framkvæmdavilja og bjartsýni, a.m.k. hjá yngri og atorkusamari bændum"(!). Þetta myndi einnig leiða til þess að búskapur "við lakari aðstæður legðist niður og bændum með sauðfjárbúskap fækkaði, þótt hugsanlega yrði ekki heildarfækkun fólks við bústörf". "Á stærri búum myndi verkaskipting einnig aukast og þau yrðu væntanlega rekin með aðkeyptu vinnuafli a.m.k. á vissum árstímum". Þarna eru komnar fram meginhugmyndir þessara áætlana SÍS-kónganna. Þeir hugsa sér að koma hér á landbúnaði í verksmiðjuformi, þar sem upp vex öreigalýður sveitanna og arðrán þeirra á sveitafólki verður í "hagkvæmara formi".

Bændur að rísa upp?

Margt bendir nú til þess, að dagar lognmollunnar í sveitapólitíkinni séu senn taldir og bændur muni nú rísa upp gegn kúgun ríkisvalds og SÍS-auðfurstanna. Fréttir hafa borist um tilraun til skipulagningar baráttu bænda í Rangárþingum og í fleiri sveitum landsins, þar sem forkólfar kaupfélaganna og bændasamtakanna hafa mætt með lafandi eyru og reynt að lægja ófriðaröldur. En bændur mega ekki láta glepjast af orðavaðli uppkeypra forsvarsmanna sinna. Þeir eiga nú að skipuleggja baráttusveitir sem víðast og bjóða ríkisvaldinu byrginn. Sagan hefur sýnt, að samstaðan færir sigur í hverri raun, það gildir líka um réttindabaráttu sveitaalþýðunnar á Íslandi.

VERKALÝÐSBLAÐIÐ sendir baráttusinnuðum bændum landsins kveðjur og hvetur þá til þess að brýna nú branda sína til enn harðari áhlaupa á fjandmenn sína og gróðaöfl þau sem lifa á þeim í nafni "samvinnuhreyfingar".



## 1/2 MÁN. BLAÐ '77!

200 Áskrifendur 200 þ. Krónur




Fjársöfnunin hefur tekið nokkurn fjörkipp nú um áramótin og söfnuðust til dæmis 20 þúsund kr. á fáeinum dögum. Áskrifendasöfnunin hefur hins vegar gengið hægar, en það þýðir aðeins það, að við verðum enn að herða róðurinn félagar.

